# FRÁ
# NÝJA ÍSLANDI

MANITOBA. CANADA.

SNÚIÐ ÚR ENSKU.

REYKJAVÍK 1878.
Útgefend.: Sigf. Eymundarson. Guðm. Lambertsen.

Því mun sjálfsagt verða mikill gaumur gefinn, hversu þeim Íslendingum vegnar, er hafa tekið sèr bólfestu á nýju landi; einnig mun landa þeirra mjög svo fýsa að frètta vellíðan og velgengni vina og frænda sinna, er hin síðustu ár hafa flutt sig frá Íslandi; verður því gjört að umtalsefni hèr, hið áreiðanlegasta og vissasta, er frètst hefir frá nýlendunni Nýja Íslendi, eða frá Gimli við Winnipegvatn í fylkinu Manitoba í Canada.

Fyrst má þess geta, að Canadalönd eru svo umfangsmikil og frjófsöm, og vötn og ár í landinu svo ríkuglega fyllt veiði, að lönd þessi meiga teljast að geta framfleytt nær því ótakmörkuðum innbúafjölda, í samanburði við hvað margir eru þar nú. Þar á móti virðist Ísland ár eptir ár að leiða þá reynzlu í ljós, að það ekki geti gefið innbúum sínum næga afkomu, sem lýsir sèr á því, að fjöldi manna lifir þar við mjög bágborin kjör, en ef til vill enn þá fleiri þurfa þar að njóta fátækrastyrks, til að framfleyta lífi sínu og sinna, og sannast það með hinu sívaxandi sveitarútsvari í velflestum hreppum landsins; ekki er heldur neitt útlit fyrir að menn geti átt von á, að ókomnir tímar geti ráðið bót á þessu, því bæði gengur landið af sèr, og fènaðarhöld líða óbætanlegan hnekkir bæði af bráðapest og illviðrum og þar af leiðandi fjárfellir. Það er því ekki að undra þótt Íslendingar leiti sèr hælis í öðrum betri löndum, eða sèr í lagi í Canada, sem býður öllum góðum mönnum æskilegan samastað, sem þangað vilja flytja sig, og það ekki síst Íslendingum, eins og

Canadastjórn hefir þráfaldlega látið í ljósi. — Það er nú sjálfsagt að Canada hefir hag á að Íslendingar, sem eru bæði hraustir og starfsamir, setjist þar að, því með því að bæta sín eigin kjör, auka þeir einnig þjóðflokk og velmegun Canadaríkis. Á hinn bóginn hefir og Ísland hag á því, að þaðan flytjist fólk, því það rýmir um, fyrir þeim sem eptir eru, um leið og Íslendingar ~~hljóta~~ þar land, sem bæði er heilsusamlegt fyrir þá hvað loptslag snertir, og einnig er nógu auðugt til þess, að veita þeim meir en af skornum skamti.

Undir þessum líkum kringumstæðum myndaðist ~~nýlendan~~ Nýja Ísland í Canada, og árangurinn er nú þar af sá, að þrátt fyrir þrautir þær er nýlendumenn urðu fyrir í fyrstu, nefnil. bólusóttina, sem enginn gat varast; hefir hin íslenzka þjóð nú stofnsett sig og fest djúpar rætur í Canada, hvar þessi kynslóð mun framvegis blómgast og vaxa.

Það er ekki nauðsynlegt að taka ýtarlega fram, alla þá kosti og auðlegð náttúrunnar, bæði uppgötvaða og óuppgötvaða, sem hin víðáttumiklu Canadalönd hafa til að bera; það er áður svo margritað um það efni, að öllum sem vilja gefa því gaum, hlýtur að vera auðskiljanlegt, hvað mikla hagsmuni þeir eiga í vændum, sem þangað flytja sig, og taka þar bústað.

Landstjórinn í Canada, Lord Dufferin ferðaðist síðast liðið sumar um norðurhluta Canadaríkis, þar Nýja Ísland er, ásamt með tveimur ráðherrum stjórnarinnar. Þeir veittu sérstaklega athygli að ástandi og kringumstæðum Íslendinga í Nýja Íslandi: það má þar af ráða hversu annt Canadastjórn er um nýlendu Íslendinga, og gefur um leið ljóslega í skyn hversu gott útlit er fyrir viðgangi og blómgun nýlendumanna þar,

eins og ræða landstjórans ber með sér, og er hún svo hljóðandi:

„Fyrir 20 árum síðan fell mèr sú hamingja til handa, að heimsækja yðar föðurleifð, og kom mèr þá síður en ekki í hug, að það hlutfall ætti fyrir mèr að liggja, að veita yður viðtökur í þessu landi í nafni hinnar brezku stjórnar. En þetta færi, sem mèr auðnaðist þá til að kynnast yðar stórfeldu sögu og yðar fögru bókvísi, og sú velvild, sem eg mætti hjá landsmönnum yðar, gjörir mèr unnt að bjóða yður því hjartanlegar velkomna. Með hinni mestu sorg hefi eg frètt af hinu þunga mótlæti, hinni ógurlegu bólusótt, er mætti yður, hingað nýkomnum. Slík mannraun hefði vel mátt veikja yðar hugrekki og lama yðar manndóm. Þær varúðarreglur, sem hèraðsstjórnin hèr nauðug-viljug varð að gjöra, til þess að stöðva sýkina, hljóta og að hafa orðið yður afar-tilfinnanlegar, en nú gleðst eg í þeirri von, að öllu því mikla andstreymi, sem þèr hafið orðið að þola þegar í upphafi komu yðar og veru hèr meðal vor, því sè nú að fullu og öllu lokið, og að þèr nú þegar hafið byrjað farsæla og blessunarríka tilveru. Að því sem mèr hefir skilizt, er ekki einn einasti maður meðal yðar sá, sem ekki er fullkomlega ánægður með sín nýju kjör, og fullkomlega sannfærður um, að sú breyting, sem orðið hefir á um forlög hans, sè góð orðin. Að því er eg fæ sèð, fer allt ánægjulega og vel fram hjá yður. Hús þau, sem eg hef skoðað, virðast vera vel smíðuð og þægileg, og efiaust miklu betri en bæir þeir, sem mèr eru í minni frá Íslandi; grasgarðar yðar og túnblettir, sem

þèr hafið rétt til, sýna að þèr þegar èruð tekn-ir að toga hinn ótæmandi auð út úr þeim hinum ágæta jarðvegi, sem vèr stöndum á. Þar sem enginn yðar hefir nokkurn tíma sèð á ættjörðu sinni eik, kornakur, eða hlaðinn veg, er þess engin von, að þèr nú getið sýnt kunnáttu í skógarhöggi, plægingu og vegagjörð, en við æfinguna munuð þèr brátt læra þessar aðal-iðnir hvers landnámsmanns í Canada, því þèr hafið miklu fremur en menn líklega almennt ætla, til að bera það sem er kjarni og grundvöllur allra aðri framfara: mannvit (intelligens), menntun og andans dugnað og táp. Eg hef ekki komið inn í einn einasta kofa í nýlendunni, þar sem eg fann ekki að minnsta kosti 20 til 30 bækur, og er mèr svo frá sagt, að varla finnist það barn hèr, sem ekki kunni að lesa og skrifa. Öldum saman hafið þèr verið útilokaðir frá menntun Evrópu, og staðið fyrir því ef til vill, í ýmsum efnum á baki annara þjóða. Lífskjör yðar heima hafa, ef til vill, ekki vanið yður við fasta og stöðuga verkiðn, sem þèr munuð sjá að hèr er nauðsynleg. En í hinu bjartara, þurrara og ferskara himinlopti yðar nýja lands, munuð þèr skjótt finna meira lífsfjör í yður, og yðar æ-vaxandi velmegun mun uppörfa yður ár frá ári til meiri og meiri kappsmuna og manndómislegrar áreynslu. Lífsöfl hins nýja heims munu óðum endurlífga til forrirar heilsu í yður þær gáfur, sem eru einkenni yðvars þjóðernis, en sem sökum lopts og landshátta hafa að nokkru leyti legið í dvala. Nauðsyn verður yður að neyta sem allra bezt samfèlagsskapar við þá nágranna yðar, sem betur

eru að sér; mér hefir verið ánægja að frétta það af yngisstúlkum yðar, sem komist hafa í þjónustu í ýmsum Canadiskum húsum, hvar þær ekki einungis geta numið enska tungu, sem er mjög æskilegt að þið allir lærðu, og sem þær á eptir gætu kennt bræðrum og systrum sínum, og eg vonast til síðar meir, einnig börnum sínum; en þar munu þær líka nema hina heimilislegu hagfræði og snotra meðferð og umgengni á öllu, sem allt er svo ómissandi fyrir velgengni, heilsusamleika og notalegleika heimila vorra. Það gleður mig einnig mjög, að geta sagt, að mér hefir af mörgum verið borinn hinn bezti vitnisburður af þessum ungu Ingibjörgum, Þórum og Guðrúnum, sem eg er fullviss um, að ekki munu kafna undir nafni hinna hetjulegu fornmæðra sinna, hverra nöfn þær hafa erft. Mörg af húsum þeim er eg í dag hefi heimsótt, hafa með loptheilnæmi og hreinlæti, og snotrum frágangi hvervetna borið þess ljósann vott, að þar var húsmóðir sem búin var að taka sér snið af hérlendum siðum. En um leið og eg hefi getið þessa, vil eg ekki leiða hjá mér að benda ykkur á, að í mörgum smáhúsum sem eg hefi komið í í dag, sem sum eru einungis byggð til bráðabyrgða, og ekki nema með einu eða tveimur smá-herbergjum, sá eg var stór járneldstó, sem bæði skyldi þéna til að elda á, og líka upphita herbergin, eg er fullviss um, að í þeim húsum hvar sérstakt eldhús ekki verður haft, er opin eldstó betri. Eg er sannfærður um að ef eg kæmi til ykkar á vetrartíma, þá mundi eg finna slæmt lopt í húsum yðar og hið

ytra lopt alveg útilokað. Þið eruð umkringdir af ágætum við til eldiviðar sem lítið kostar að afla sèr, þess vegna þarf ekki eldiviðarsparnaður að reka ykkur til að brúka þenna óholla upphitunarmála. Vetrarloptið hèr þótt nokkuð kalt sè, er mjög heilsusamlegt og hressandi, og verkar mjög hvetjandi til líkamlegrar áreynzlu. Hvar á móti hið skemmda innilokaða lopt í ofhituðu þèttu herbergi verkar deyfandi á lífs og sálar viljakrapt og þrek. Sá sem endurnærist á lífslopti okkar hreina vetrarlopts, finnst sem hann megi fljúga á vængjum gleðinnar. Þegar slóðinn sem situr að eldstónni, ekki fær hörmungalaust rekið nefið út fyrir dyrnar.

Eg þarf ekki að segja yður að á slíku landi sem þessu, sè sjálfstraust, táp og einbeittur áhugi að ná sjálfbjargastöðu með eigin atorku, framar öllu lífsskilyrði. Þetta er óþarft að kenna annari eins þjóð og Íslendingum. Árbækur yðar lands eru fullar glæsilegra frásagna um þol og framtgirni forfeðra yðra. Synir og dætur þeirra manna, sem fóru norður um haf á hálfopnum skipum, og kjöru heldur að búa milli jökla og eldhrauna en við næði og nægtir undir harstjórans járnsprota, — mættu brosa að hverjum þeim, sem kvartar við þá um erfiðleika og harðindi í yndisforsælu þessa skógarlands, við hinar brosandi bárur þessa skínandi stöðuhafs. Sú breyting, sem nú gjörist á yðar örlögum, er gjörsamlega gagnstað þeirri, er varð á kjörum yðra forfeðra. Þeir flýðu frá fögrum heimkynnum og gullnum ökrum til grimmra óbyggða, jökla og hrauna, en þèr heilsið hèr landi með hefhlæmasta loptslagi í

Ameríku, og þeim jarðvegi, sem að frjósemi á ekki sinn líka, og sem fyrir litla fyrirhöfn frá yðar hálfu getur orðið óþrjótanda nægtahorn. Vèr gleymum og ekki heldur því, að engin þjóð á fyllri rètt til að koma til vor en einmitt þèr, því að öllum líkindum á heimurinn að þakka hreysti hinna fornu íslenzku sæfara fund þessarar heimsálfu. Hefði Kolumbus ekki heimsótt yður og fundið í sögum yðar reynda og óyggjandi sönnun þess, er hann sjálfur hafði með miklum skarpleika ráðið í, að meginland hlyti að vera til vestur í hafi, þá hefði vel mátt fara svo, að hann hefði aldrei áræmt að leggja út á Atlantshafið.

Aptur býð eg yður velkomna til þessa lands, þess lands, þar sem þèr finnið yður frjálsa menn og óháða nokkrum yfirherra. Eins og óðalsmenn og bændur fornaldarinnar verður hver yðar sinn eiginn höldur og húsbóndi á sinni lóð. Þótt þèr gjörist þegnar Victoríu drottningar, þurfið þèr ekki að gleyma yðar gömlu heiðvirðu þjóðsiðum eða feðra yðvarra ágætu árbókum. Þvert á móti vona eg að þèr munið um aldur og æfi varðveita og stunda hina hrífandi bókfræði yðar, og að niðjar yðar frá kyni til kyns muni halda áfram að læra af fornsögum yðar þá iðni, táp, hreysti, þrautgæði og ósigrandi þolinmæði, sem á öllum öldum hefir einkennt hina göfugu íslenzku þjóð. Eg hef sagt vinum mínum í Canada frá þeirri sannfæringu minni, að yðar nýlenda muni fá blessunarríkan framgang. Minn heitasti og hjartgrónasti hugur er með yður, og eg er sannfærður um það með sjálfum mèr, að framtíð yðar hèr verður ekki einasta farsæl og fögur, heldur og að

það verði hvervetna viðurkennt, að aldrei hafi þetta ríki (Dóminíónin) fengið dýrmætari viðauka til eflingar manniviti, föðurlandsást, þegnhollustu, og styrk og starfsemi en í yður".

Því til enn frekari sönnunar, hversu satt Lord Dufferin hefir sagt í ræðu sinni, má þjóna fylgjandi grein úr blaðinu «Toronto Globe» sem er eitt af helztu blöðum Canadaríkis, og ekki fer með annað en það, sem áreiðanlegt er; þetta er fréttabréf til blaðsins, og hljóðar sem hér segir:

«Um borð á «Lady Ellen» á Winnipegvatni 19. sept. 1877.

Síðastliðinn þriðjudagsmorgun fóru þeir innanríkisráðgjafinn Mr. Mills, jarðræktarmálaráðgjafinn Mr. Lowe og sekríteri hans Mr. Burgess, og prívatsekríteri innanríkisráðgjafans, og tveir eða þrír merkismenn frá Winnipeg og Selkirk, frá síðast nefndum bæ á gufuskipinu «Lady Ellen», og segir svo frá ferð þeirra.

Eptir heppilega að hafa farið yfir vatnið komum við seinni hluta dags í hina snotru bugt hjá Gimli, sem var fyrsti aðsetursstaður Íslendinga, og telst að vera höfuðstaðurinn í Nýja Íslandi; svo hafa þeir kallað nýlendu sína: þótt nafnið þyki hér kuldalegt, er það þó þeim kært, sem vona þar að stofnsetja þjóðflokk sinn og þjóðerni. Íslendingar flögguðu, og gengu í hóp saman að veita okkur móttöku.

Eg vil leyfa mér að geta þess, að það voru margar ástæður til þess, að ráðgjafarnir heimsóttu nýlenduna, bæði til að sjá hvað gjört hefði verið þar, og líka með tilliti til, ef fleiri flyttust þangað, sem Canadastjórn vill greiða fyrir sem bezt að má, sem og til að

yfirskoða ástandið þar; hvar stjórnin hefir lagt mikið fè til bæði í lánum og öðruvísi, svo að nylenda þessi kæmizt á fót.

Í byrjun varð nýlendan fyrir miklu tjóni af bóluveikinni sem þar gekk, og þar af fljótandi ráðstöfunum, en nýlendumenn lètu sèr ekki þar fyrir hugfallast: þeir skrifuðu frændum og vinum á Íslandi snemma í vor frá Gimli. Stjórnin sendi í fyrra tvo agenta til Íslands, til að benda mönnum þar á nýlendustað þenna, og fluttust þá nærfellt 1200 manns hingað, svo að fólkstala í nýlendunni varð þá kringum 1500. Með þessari fólkstölu stofnsettist nýlendan, og var það nýlunda fyrir Íslendinga, að setjast að í skóglendinu sem varla áður höfðu sèð trè vaxa, en eins og Lord Dufferin í ræðu sinni fyrir fáum dögum sagði við þá: «Þar sem enginn yðar áður hefir sèð á ættjörðu sinni eik, kornakur eða hlaðinn veg, er þess engin von, að þèr nú þegar getið sýnt kunnáttu í skóghöggi, plægingu og vegagjörð, en við æfinguna munið þèr brátt læra þessar aðal-iðnir hvers landnámsmanns í Canada, því þèr hafið miklu fremur en menn líklega almennt ætla, til að bera það sem er kjarni og grundvöllur allra æðri framfara: mannvit, mentun, andans dugnað og táp».

Þess er vert að geta, að tæpum tveim mánuðum eptir að sóttvörnin var hafin, er sett var vegna bólunnar, er svo harðlega þjakaði að, átti skoðunargjörð ráðgjafanna sèr stað, sem eg nú er að rita um, og fundu þeir, að þrátt fyrir það, þótt nærfellt einn sjöundi hluti hefði dáið úr bólusóttinni, var fólkstalan þó enn þá 1500, sem mestmegnis kom af því, hvað fleiri höfðu fæðst en dáið, en að nokkru af aðkomnum Íslendingum frá Bandaríkjunum og Íslandi.

Húsatala í nýlendunni var 200, fjöldi þeirra eru Íslendingshús, stór og hagkvæm, þau eru líkust bændahúsum í Ontario, á þeim má sjá, að Íslendingar bæði kunna að fara með tól og byggja hús. Af akri hafa menn rutt frá tveimur til tíu ekrur, og höggvið hafa þeir góðann veg gegnum skóginn tvær til þrjár mílur enskar á lengd, sem allt ber vott um áframhald og dugnað.

Nýlendan var frá norðurtakmörkum Manitoba á ströndinni á Winnipegvatni að Íslendingafljóti hjer um bil 30 enskar mílur, við Íslendingafljót, sem við ekki komum að, er okkur sagt, að sè einhver hinn bezti hluti nýlendunnar. Fljótið er skipgengt nokkuð upp eptir, það er bezta höfn vestan til í mynni þess. Fisk má telja þar óþrjótandi; engjar eru góðar á bökkum þess, sem gefa af sèr gott og mikið nautafóður, og jarðvegur er þar frjóvsamur. Á Gimli, þar sem jarðvegurinn er lakari, sáum við þó góðan ávöxt, hjá tveim eða þremur bændum af vænum jarðeplum, sem þó ekki höfðu verið sett fyr en í júní, af því erfiðleiki var að ná útsæði sakir sóttvarnarinnar, og má ætla nýlendumenn uppskeri næg jarðepli fyrir sig. Við sáum gott indiskt hveiti (Mais) og ber það vott um beðarblíðuna, einnig voru þar ýmsar baunir og káltegundir. Okkur var sagt að við Íslendingafljót hefði verið sáð til korns, en það hafði ekki verið gjört á Gimli.

Það eru 600 nautgripir í nýlendunni, þær kýr er við sáum voru í góðu standi, sumpart eru þær keyptar fyrir stjórnarlán, en sumpart af eigum hlutaðeigenda, okkur var sagt af einum manni sunnar í nýlendunni, sem hafði keypt 20 kýr handa sjálfum sèr, og þar hjá lánaði fátækum löndum sínum um 1000 doll-

ara til að kaupa kýr fyrir, móti lágri re. tu eða alls engri.

Síðastliðinn vetur áður en bólan kom, höfðu nálægt 50 manns vinnu við sögunarmyllnur í Winnipeg, og höfðu 1½ til 2 dollara um daginn, nokkrir höfðu og vinnu við vegagjörðir. Í sumar hafa hèr um bil 60 manns verið í vinnu hjá bændum í Manitóba og haft 15 til 20 dollara um mánuðinn og fæði, þar græða þeir ekki einungis kaup sitt, heldur og þekkingu á jarðrækt og enskri tungu; við tókum líka eptir að eitthvað 6 menn voru í siglingum með gufuskipi á fljótinu, og líkar alstaðar vel við Íslendinga.

Það eru hèr um bil 100 stúlkur í vinnumennsku í Winnipeg, og fá þær í kaup frá 3 til 12 dollara um mánuðinn ásamt fæði, nokkrar fá 18 til 20 dollara um mánuðinn, og eru þær við þvott sem er sagt þeim farnist vel, sagt er um þær, að þær haldi upp á að búast vel, en þær gjöra það af sínu eigin, þó er þess getið að margar þeirra, sem eiga fátæka foreldra eða vandamenn á Nýja Íslandi, sendi drjúgum skilding þangað, og hafa sumar keypt kýr og sent sínum, sagt er að ein hafi sent þeim 60 dollara í peningum.

Trúarbrögð Íslendinga eru Lútersk, og er sagt von á tveimur prestum til þeirra; bólusóttin hindraði að koma barnaskóla á, en dóttir agents Taylor hefir sagt mörgum börnum til í ensku, sem sagt er að sèu fljót að nema. Nýlendumenn hafa einnig komið á blaði er Framfari kallast, og beiðst eptir bót á póstgaungum, því all-flestir munu þeir vera brèfritarar. Það er sagt að þeir skrifi vel af sèr til Íslands, og segi betra að lifa í Nýja Íslandi, en norður í ísbelti norður heimsskautsins á Íslandi gamla.

Það er óhætt að segja, að eptir allt mótlæti sem nýlenda þessi hefir átt við að stríða í byrjun, má útlitið teljast heldur efnilegt, og er ekki ofsögum sagt, hvað Lord Dufferin sagði í ræðu sinni til nýlendumanna: «Eg hef sagt vinum mínum í Canada frá þeirri sannfæringu minni, að yðar nýlenda muni fá blessunarríkan framgang. Minn heitasti og hjartgrónasti hugur er með yður, og eg er sannfærður um það með sjálfum mèr, að framtíð yðar hèr verður ekki einasta farsæl og fögur, heldur og að það verði hvervetna viðurkennt, að aldrei hafi þetta ríki fengið dýrmætari viðauka til eflingar mannviti, föðurlandsást, þegnhollustu, og styrk og starfseemi en í yður».

Hvað snertir stjórnarlánið, urðum við þess varir, að þeim var umhugað um að endurborga það sem fyrst það er ekki nýlunda hèr, að nýlendumenn hafi fengið lán, og hefir það ætíð gefist vel, þegar einhver hemill hefir verið hafður á því.

Að endingu vil eg segja, að þótt helmingurinn af innbúum Íslands flytti hingað, sem virðist hafa haft sömu innbúatölu síðustu þúsund ár, þá mundi fljótt vaxa í skarðið, því þar er sjálfsagt mjög frjósöm kynslóð, þegar þeir geta lifað við nokkurn veginn ástæður, og ekki þurfa að kveljast af sulti og seiru, sem margir víst ekki komast hjá á Íslandi, en sá hlutinn sem hingað flyttist mundi ryðja sèr til rúms í sögu þessa lands, og gjörast hèr mikill kynstofn. Í nýlendunni er í hverju húsi fjöldi barna, skal þess getið með tilliti til þess sem á undan er sagt, og mun gleði vonarinnar þar engu minni en endurminningarinnar».

---

Þegar litið er til þess, sem hèr á undan er sagt,

má það teljast heppilegt, að Íslendingar sem vestur um haf fluttust, tóku sèr aðsetur í Canada, og velgengni þeirra sem á undan eru farnir, hlýtur eðlilega að hafa áhrif á það, hvar Íslendingar seljast að hèr eptir, þá þeir vilja skipta um bústað, og er það óhætt að ætla á, að svo muni búskapurinn á Nýja Íslandi verða, þá fram líða stundir, að margan á gamla Íslandi muni fýsa að seljast þar að. Þeir eru nú einnig búnir að sjá hversu velkomnir þeir eru þangað.

Það virðist rètt að endingu að geta þess, að Íslendingar eru vel látnir í Canada, og má sjá það af því, að fylkið Ontario er viljugt að sjá 5 til 800 ungum mönnum og kvennfólki fyrir atvinnu þar í fylkinu.

Þær sannanir sem felast í því undangengna virðast að vera nægar til, að gefa mönnum gott yfirlit yfir, hversu lítur út á Nýja Íslandi, og hve góðar vonir menn meiga gjöra sèr um nýlendu þessa, og er þar með þeim tilgangi náð, sem ætlast var til.